# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga, gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

13. árg. WINNIPEG, FEBRÚAR 1899. Nr. 12.

## Við útför framliðinna.

Í kirkjunni (eða á heimili hins látna).

---

Drottinn, miskunna þú oss!
Kristr, miskunna þú oss!
Drottinn, miskunna þú oss!

(Þetta bœnarávarp sé mælt fram af prestinum og síðan sungið eða tónað af söfnuðinum).

---

Þar næst sé lesinn (eða tónaðr) einn eða fleiri af Davíðs sálmum þeim, sem nú skulu til nefndir: hinn 130. („Úr djúpinu kalla eg til þín, drottinn" o.s.frv.); hinn 90. („Drottinn, þú varst vort athvarf frá kyni til kyns" o.s.frv.); hinn 23. („Drottinn er minn hirðir" o.s.frv.); hinn 25. („Til þín upplyfti eg minni sálu" o.s.frv.); hinn 27. („Drottinn er mitt ljós og mitt frelsi" o.s.frv.); hinn 39. („Eg sagði: Gái eg að mínum vegi" o.s.frv.); hinn 42. („Eins og hjörtrinn kallar eftir rennanda vatni" o.s.frv.); hinn 73. („Já, góðr er guð við Ísrael" o.s.frv.); hinn 116. („Hversu gleðr það mig" o.s. frv.); hinn 121. („Eg lyfti mínum augum til fjallanna" o. s. frv.); hinn 139. („Drottinn, þú rannsakar og þekkir mig" o. s.frv.); hinn 144. („Lofaðr sé drottinn, mitt bjarg" o.s.frv.).

---

Þá sé sálmr sunginn (úr sálmabókinni).

Þar næst lesi prestrinn eða sá annar, sem guðsþjónustuathöfninni stýrir, eina eða fleiri af lexíum þeim úr biblíunni, sem nú skulu tilgreindar:—1. Tess. 4, 13—18; 1. Kor. 15, 12—26 og 35—38; Jóh. 11, 21—27; Lúk. 7, 11—15 (enda á orðunum; ,,og hann gaf hann aftr móður sinni"); Matt. 9, 18—19 og 23—26.

Í stað leskafla þessara má nota þá, er nú skal á bent (eða einhverja aðra viðeigandi):—2. Sam. 12, 16—23; 2. Kg. 4, 18—37; Job 14, 1—16; 19, 21—27; Préd. 12, 1—7; Matt. 25, 31—43; Mark. 10, 13—16; Jóh. 6, 37—40 og 47—54; Róm. 6, 8—11; 14, 7—9.

Upp á lexíu þá, sem við er höfð, á vel við að svarað sé af söngflokki og söfnuði með einhverjum tónsöngva þeirra, er hér fara á eftir.

I.

Fyrst vér höfum þegið hið góða af guði, eigum vér þá ekki einnig að þiggja hið vonda?—Drottinn gaf, drottinn tók.

Lofað sé drottins nafn!

Drottinn gaf, drottinn tók.

II.

Eg veit, að frelsari minn lifir, að hann mun lengst á jörðinni standa, og án holds mun eg sjá guð.

Já, hann einmitt mun eg sjá, mín augu skoða hann og ekki annar.

Og án holds mun eg sjá guð.

III.

Ef vér trúum því, að Jesús sé dáinn og upp aftr risinn, þá mun guð sömuleiðis fyrir Jesúm ásamt honum leiða til sín þá, sem sofnaðir eru. Verið því ekki hryggir eins og hinir, sem vonlausir eru.

Því að eins og allir deyja í Adam, eins munu og allir lífgast í Kristi.

Verið því ekki hryggir eins og hinir, sem vonlausir eru.

IV.

Sjá, hvernig réttlátr maðr deyr, og enginn leggr það sér á hjarta; og hinir réttvísu eru teknir burt, og enginn íhugar

það. Frá ókomnu böli er hann tekinn burt; og minning hans skal vera í friði.

Í friði hvílir hann í jörðinni, og Síon er bústaðr hans.

Minnïng hans skal vera í friði.

V.

Í friði leggst eg fyrir; í friði sef eg. Enginn af oss lifir sjálfum sér, og enginn deyr sjálfum sér.

Hvort sem vér þess vegna lifum eða deyjum, þá erum vér drottins.

Enginn af oss lifir sjálfum sér, og enginn deyr sjálfum sér.

---

Í stað tónsöngva þessara má syngja sálm eða sálmsvers. Og að því búnu er líkrœðan haldin, ef hún á annað borð er nokkur.

---

Þá má enn syngja einhvern af þessum tónsöngum:

I.

Nú lætr þú, drottinn, þjón þinn í friði fara o. s. frv. Lúk. 2, 29—32. *(Nunc dimittis.)*

II.

Lofaðr sé drottinn, guð Ísraelsmanna, sem vitjaði síns fólks og frelsaði það o.s.frv. Lúk. 1, 68—79, *(Benedictus.)*

III.

Eg sagði: Á hádegi míns lífs hlýt eg að ganga gegn um dauðans dyr o.s.frv. Esaj. 38, 10—20. (Söngr Esekía.)

IV.

Sælir eru þeir, sem eru andlega volaðir, því þeirra er himnaríki o.s.frv. Matt. 5, 3—12. (Upphaf fjallrœðunnar.)

Hvern fyrir sig af þesssum tónsöngum, sem þegar voru nefndir, má byrja og enda með einhverri af *antífóníum* þeim, er hér fara á eftir:

I.

Ó, hve dýrðlegt er ríki það, þar sem allir heilagir fagna með Kristi. Þeir eru skrýddir hvítum skikkjum og fylgja lambinu, hvert sem það fer.

II.

Sá, sem gengr út grátandi, er hann ber hið dýrmæta út-

sæði, mun vissulega koma aftr með fagnaðarsöng, berandi heim kornbyndinin.

III.

Eg heyrði rödd af himni, sem sagði: Sælir eru hinir framliðnu, þeir, sem í drottni eru dánir.

IV.

Eg em upprisan og lífið. Hver sem trúir á mig, hann mun lifa, þótt hann deyi. Og hver sá, sem lifir og trúir á mig, hann skal aldrei að eilífu deyja.

V.

Guð mun þerra hvert tár af augum sinna heilögu. Og hvorki harmr, né vein, né mœða mun framar til vera, því hið fyrra er farið.

---

Að tónsöngnum enduðum hefst bœn:

Ó, guð faðir á himnum, miskunna þú oss!

Ó, guðs son, endrlausnari heimsins, miskunna þú oss!

Ó, guðs heilagr andi, huggarinn, gef oss þinn frið!

Mælt fram af prestinum og síðan sungið eða tónað af söfnuðinum.

---

Síðan drottinleg bœn, fram borin af öllum í einu:

Faðir vor, þú, sem ert á himnum o. s. frv.

Því næst framflytr prestrinn eina eða fleiri af bœnum þeim, er nú koma:

Almáttugi guð, sem með dauða sonar þíns hefir sigrað synd og dauða og með upprisu hans leitt aftr fram sakleysið og eilíft líf, svo að vér mættum frelsaðir verða frá yfirráðum djöfulsins og hinir dauðlegu líkamir vorir mætti upp vaktir verða frá dauðum fyrir kraft hinnar sömu upprisu,—veit náð til þess, að vér fáum af öllu hjarta trúað þessu og svo loks ásamt öllum þínum heilögu orðið hluttakar hinnar gleðilegu upprisu réttlátra, fyrir hinn sama, Jesúm Krist, þinn son, drottin vorn. Amen.

---

Almáttugi og eilífi guð, sem fyrir son þinn hefir heitið oss fyrirgefning syndanna og frelsan frá eilífum dauða, styrk oss, vér grátbœnum þig, með heilögum anda þínum, svo að traust vort á náð þinni í Jesú Kristi fái daglega farið vaxanda og vér

með trúaröruggum huga fáum haldið fastri þeirri sæluríku von, að vér munum ekki deyja, heldr að eins sofna, og á síðasta degi verða upp vaktir til eilífs lífs, fyrir hinn sama, Jesúm Krist, þinn son, drottin vorn. Amen.

---

Ó, guð, himneski faðir vor, sem fyrir munn þíns heilaga postula hefir kennt oss að syrgja ekki um of þá, sem eru sofnaðir í Jesú, veit af náð þinni, að vér, að þessu lífi loknu, fáum ásamt öllum þínum heilögu orðið teknir inn í eilífan fögnuð, fyrir Jesúm Krist, drottin vorn. Amen.

---

Almáttugi og allra miskunnsamasti guð, sem hefir ákvarðað, að vér skyldum þola þjáningar og dauða með drottni vorum Jesú Kristi áðr en vér inngöngum með honum í dýrðina, —veit oss náð til þess á öllum tímum að beygja oss undir þinn heilaga vilja, standa stöðugir til enda í hinni sönnu trú og njóta friðar og fagnaðar í hinni sælu von um upprisuna frá dauðum og dýrðina í eilífðinni, fyrir drottin vorn Jesúm Krist. Amen.

(Hér má, ef svo stendr á, bera fram sérstakar fyrirbœnir.)

Ó, drottinn Jesús Kristr, sem birtist á ný komandi til að dœma lifendr og dauða og kalla fram þá, sem í gröfunum sofa, til upprisu lífsins eða upprisu fordœmingarinnar,—vér grátbœnum þig að vera oss náðugr og vekja oss upp til eilífs lífs, að vér fáum að vera hjá þér eins og þínir heimamenn eilíflega, þú, sem lifir og ríkir með föðurnum og heilögum anda um aldir alda. Amen.

---

Lofum drottin.

Þökk sé guði. (Tónað af söfnuðinum.)

Náðin drottins vors Jesú Krists, guðs kærleikr og sameining heilags anda sé ávallt með yðr öllum. Amen.

---

## Samtalsfundr

var haldinn í kirkju Argyle-safnaða þriðjudaginn og miðvikudaginn 24. og 25. Janúar. Og voru þar ásamt safnaðafólki byggðarinnar og prestinum á staðnum, séra Jóni J. Clemens,

staddir þrír aðkomnir prestar kirkjufélagsins: þeir séra Friðrik J. Bergmann og séra Jónas A. Sigurðsson frá Norðr-Dakota, og séra Jón Bjarnason frá Winnipeg. Hinn síðast nefndi prédikaði við guðsþjónustu, sem haldin var á undan fundinum fyrra daginn, og lagði út af 1. Pét. 1, 6—9 („Gleðjizt af þessu, þótt þér nú um skamma stund, ef svo verðr að vera, hryggjast megið af margskonar freistingum" o. s. frv.). Umrœðuefnið þann dag var ekki beinlínis trúarmál: *Hvað eigum vér að lesa?* Séra Jónas A. Sigurðsson hélt þar inngangsrœðu. Að sjálfsögðu var bæði af honum og öðrum, sem töluðu um málið, bent á biblíuna eins og þá bók, er menn grœddi meira á að lesa en allt annað. En minnt var jafnframt á það, hve ófullkomlega sú bezta og mesta bók heimsins notaðist mörgum sökum þekkingarskorts á fornaldar-heiminum, þar sem saga biblíunnar gjörðist og hin ýmsu rit hennar voru fœrð í letr. Þau rit, sem hjálpuðu til rétts skilnings á biblíunni, væri mönnum því ómissandi. Í því sambandi var minnzt kirkju- og trúmálaritanna íslenzku allra, sem nú koma út bæði hér innan kirkjufélagsins og á Íslandi og fólk hvatt til að styðja að útbreiðslu þeirra. Minnt var á, hvílíkt feikna úthaf heimsbókmenntirnar væri nú orðnar, og fyrir þá sök því fremr áríðanda, að menn eyddi ekki tíma í að lesa ónýtt bóka- eða blaðarusl, og því síðr það, sem beinlínis væri illt og siðspillanda. Menn þyrfti að kappkosta að velja sér til lestrs hið bezta eða það, sem væri verulega gott. Tekið fram, hve tiltölulega mikið gott væri í ensku bókmenntunum í samanburði við bókmenntir flestra eða allra annarra nútíðarþjóða. Þar á meðal sérstaklega hin ensku skáldsögurit, sem bókamarkaðrinn úir og grúir af. Nefndar til dœmis aðrar eins skáldsögur og *Uncle Tom's Cabin*, *Ben Hur* og allar sögurnar eftir Hall Caine, Manar-skáldið. Allt slíkt til og allsstaðar fáanlegt í svo afar ódýrum útgáfum, að nálega hverjum einasta fátœklingi, sem ensku skilr, væri það aðgengilegt.—Sérstaklega var minnt á fornsögurnar íslenzku og hvatt til að vekja athygli œskulýðs vors hér í landi á ágæti þeirra og ást á þeim breytilegu, einkennilegu, íslenzku þjóðlífsmyndum, sem þar eru víða svo meistaralega og ógleymanlega leiddar fram. Allt hið bezta í

föður- og móður-arfi vorum yrðum vér, Vestr-Íslendingar, endilega að varðveita, og þá auðvitað að styðja að útbreiðslu og lestri fornsagnanna meðal œskulýðsins hér. En hins vegar var á það bent, að af nútíðarbókmenntunum íslenzku væri tiltölulega mikið lélegt, ónýtt, og sumt jafnvel verra en ónýtt. Og að eyða tíma í lestr þess væri beinlínis óvit. Tekið var fram, hve skammt þjóð vor væri enn á veg komin í þeirri grein bókmennta, sem nú hjá öllum öðrum menntaþjóðum heimsins bæri ægishjálm yfir allt annað: skáldsögum. Og einkennilegt væri það, að hér um bil fyrsta ritverkið í þeirri grein, sem Íslendingum hefði verið boðið, hefði verið Felsenborgarsögurnar, sem rétt eftir miðja öldina hefði komið út á Akreyri. Með þeim óskaplega samsetningi hefði skaldsögubókmenntirnar útlendu — í nútíðarskilningi orðsins ,,skáldsaga''—verið inn leiddar í íslenzkt þjóðlíf. Það teikn tímans spáði óneitanlega engu góða. Engin furða, þótt óskynsamlegir hleypidómar gegn þeirri bókmenntategund, skáldsögum, hefði komizt inn í marga gætna og góða menn af vorri þjóð. Hins vegar var minnt á það, er liggr eftir aðra eins menn og þá Jón Thóroddsen, Gest Pálsson og Einar Hjörleifsson í þessari grein íslenzkra bókmennta og vitanlega er þjóð vorri til hins mesta sóma.

Á fundinum síðara daginn var haft annað og meira kirkjulegt efni til umrœðu: *Lúterska kirkjan og aðrar kirkjur.* Ritstjóri ,,Sameiningarinnar'' leiddi það mál inn á fund með rœðu. Við þær umrœður var gjörð grein fyrir sérkennum vorrar kirkjudeildar andspænis kirkjudeildunum hinum. Þar á meðal íhaldsemi hennar að því, er snertir allt það í arfinum frá fornkirkjunni og miðaldakirkjunni, sem ekki beinlínis er bannað í heilagri ritning. Hún vill halda öllu slíku og ávaxta það, þar sem aftr á mót hinir kirkjuflokkarnir allir, sem eiga rót sína að rekja til reformazíónar þeirrar, er þeir Zwingli og Calvin (í Sveiss) hrundu á stað um sama leyti og Lúter og hans félagsbrœðr voru uppi, hafa tilhneiging til að kasta öllu því útbyrðis úr kirkjunni, sem ekki beinlínis er boðið í riningunni. Enn fremr var bent á það sérkenni lútersku kirkjunnar, að hún samkvæmt trúarjátningum sínum hefir sakrament-

in, skírnina og kvöldmáltíðina, í miklu meira heiðri en þessir hinir kirkjuflokkar allir, trúir því samkvæmt guðs orði, að í þeim liggi yfirnáttúrleg náðarveiting frá frelsaranum, meira að segja hjarta kristindómsins beinlínis þar fyrir oss liggjanda. Yfir höfuð þar dýpri skilningr á guðs orði en í nokkurri annarri kirkju, og að minnsta kosti hvergi meira af kirkjulegu frelsi. Og loks það, að lúterska kirkjan með sínum göfugu sálmum, mesta andlega auðnum í þeirri grein, sem nokkursstaðar er til í kristninni, og með sínum hátíðlegu sálmalögum, sem að trúarlegri dýpt og alvöru skara langt fram úr öllu tilsvaranda í hinum kirkjudeildunum, er *syngjandi* kirkja. Á hinn bóginn var minnt á það, að vér Íslendingar gætum lært margt gott, og ættum að læra það, af hinum ólútersku kirkjuflokkum, sem vér hér í álfu búum á meðal. Þar á meðal það, að sœkja helgar tíðir reglulega, fara vel með sunnudaginn, og að skilja þýðing missíónar-starfseminnar og fara verklega að verða þar með.

Fundrinn fyrra daginn var vel sóttr og talsverð hluttaka í umrœðunum af hálfu leikmanna. Seinna daginn var fremr fátt fólk viðstatt, en það var fyrir þá sök, að þá var komið lítt fœrt óveðr og undir kvöld sannkallaðr blindbylr. Yfir höfuð að tala heppnuðust fundarhöldin mjög vel.

## Tissot og málverk hans.

Í stórborgunum í Bandaríkjunum er nú verið að sýna íþróttarverk eftir frakkneskan málara að nafni *James Tissot.* Það er safn af helgimyndum úr æfisögu frelsarans. Og þykir stórkostlega mikið til koma, svo mikið, að þessi málverk eru af þeim, sem vit hafa á, talin alveg fram úr skarandi. Sýnishorn af þessum biblíumyndum eru nú óðum að koma út í ameríkönskum tímaritum; og eftir þeim sýnishornum að dœma hljóta frummyndirnar að vera mjög áhrifamiklar, enda — eftir því, sem virðist — í fögru samrœmi við sögu guðspjallanna.

Höfundrinn er kaþólskr maðr; en framan af æfinni alllengi var hann mjög fjarri því að beina íþróttargáfu sinni í

kirkjulega eða kristilega átt. Sem málari var hann nákvæmlega sömu stefnu eins og ljóðasmiðir eða söguhöfundar realistanna í skáldskapnum. Einstrengingsskapr og öfgar þeirrar stefnu einkenna hin fyrri málverk hans, segja þeir, sem til þekkja. En allt í einu breyttist andastefna hans. Hann snerist algjörlega í kristilega átt árið 1885, og kvað hluttaka hans í guðsþjónustu nokkurri í kaþólskri kirkju einni í París hafa leitt til þess aftrhvarfs. Hann sá í anda þar í kirkjunni, eftir því, sem honum sjálfum segist frá, mynd eina átakanlega, sem sýndi rústir af kastala. Inn á þessar rústarstöðvar höfðu tvær persónur, karl og kona, mjög fátœklega út lítandi, augsýnilega af bœndafólki, komið aðvífandi og setzt niðr í örvænting út af lífsböli sínu. Þau tóku að hrópa til guðs frá djúpi hjartnanna. Og svo kemr svar upp á bœnarákallið: Vera ein eins og í manns mynd líðr þar niðr til þeirra. Það var Jesús. Og hann hallar höfði sínu upp að brjósti mannsins, réttir út hendr sínar, drjúpandi af blóði; og það var eins og hann segði: ,,Eg em friðþægingarfórnin. Eg, og enginn annar en eg, em sá, er leysir hinar leyndardómsfullu ráðgátur lífsins.''

Þessi sýn fékk svo mikið á Tissot, að hann varð sjúkr um hríð. En er hann aftr hafði náð sér, fann hann sig knúðan til að búa til málverk af sýn þessari. Og upp frá því ásetti hann sér að beina íþrótt sinni í alveg gagnstœða átt frá því, sem verið hafði, — að hinni helgu sögu guðspjallanna. Hann var fimmtugr maðr, þegar þessi breyting varð á honum.

Mynd frelsarans var það, sem hann upp frá þessu aðallega var að hugsa um. Honum fannst eitthvað vanta í allar Kristsmyndir, sem liggja eftir hina miklu helgisögumálara liðinna alda. Og það, sem honum einkum þótti þar að, var það, að myndir þessar hefði að meira eða minna leyti svip hinna ýmsu landa eða hinna sérstöku þjóðerna, sem höfundar þeirra hefði til heyrt. Myndir ítölsku málaranna hefði ítalskan svip, myndir frakknesku málaranna frakkneskan, hinna hollenzku hollenzkan, o.s.frv. Til þess að losa sig frá öllum þjóðernislegum takmörkunum með tilliti til sinna fyrirhuguðu Kristsmynda tók hann það fyrir eftir all-mikinn lestr og bóklegar

fornfrœða-rannsóknir að ferðast til landsins helga og kynnti sér eftir mætti landslag og þjóðlíf þar. Svo kom hann heim til Frakklands eftir nokkurra mánaða burtuveru. En brátt komst hann að raun um, að þessi undirbúningr undir verk það, er hann hafði sett sér fyrir, var ekki neitt líkt því fullnœgjandi. Og réð hann því af, að hverfa aftr til Gyðingalands og setjast þar að um lengri tíma og samfara stöðugum rannsóknum á umheimi hinnar helgu sögu vinna að málverkum sínum. Eftir tíu ára dvöl og vinnu þar eystra áræðir hann loks að láta verk sitt koma fyrir almennings sjónir. Og þegar það birtist, var það bæði að vöxtum og gœðum fram úr skaranda: 365 málverk með litmyndum, auk 150 uppdrátta, er gjörðir voru með penna og bleki.

Öll guðspjallasagan kemr út í málverkum þessum, sem jafnt bera vott um íþróttarlega snilld, djúpsæja fornfrœðaþekking og lotning fyrir trúarefni kristinna manna. Málverkin hafa verið gefin út — nákvæmlega eftirgjörð — í mörgum bindum. Þeim er raðað niðr eftir tímabilum hinnar helgu sögu; byrjað á barndómssögu Jesú o.s.frv. Þáttrinn, sem tekr við af œskusögu frelsarans, byrjar með mynd af fyrirrennaranum, Jóhannesi skírara, er hann kemr fram sem rödd hrópandans í eyðimörkinni. Einhver átakanlegasta myndin er sú af krossfestingunni, eins og búast mátti við.

Málverkasafn þetta var sýnt í París 1894 og í London tveim árum síðar, og vakti á báðum stöðunum almenna aðdáun og fögnuð allra kristinna manna.

## Til eftirdœmis.

Hinn 18. nóv. síðastl. voru mér undirskrifuðum afhentir peningar að upphæð tíu doll. ($10.00) með þeim fyrirmælum, að það skuli vera gjöf til hinnar fyrstu *líknarstofnunar*, sem hin lúterska kirkja Vestr-Íslendinga stofnar. Hér með votta eg opinberlega að hafa veitt peningum þessum móttöku.

Gefandinn hefir lagt svo fyrir, að nafni sínu sé leynt, en segist munu bœta við þessa upphæð næsta ár. Það má þó taka fram, að gefandinn er fátœk, íslenzk stúlka, tilheyrandi

einum söfnuðinum í Minnesota. Hún vinnr baki brotnu árið um kring fyrir litlum launum, en hún hefir sett sér þá reglu, að leggja til síðu *fjórða part* árslauna sinna og gefa það til styrktar kristniboði og líknarstarfi kirkjunnar. Þegar þessi fátœka stúlka afhenti mér peningana, segir hún: ,,Eg er sannfœrð um, að einhvern tíma á 20. öldinni verða Íslendingar því vaxnir, að koma upp einhverri líknarstofnun, sjúkrahúsi eða heimili fyrir munaðarlaus börn og gamalmenni.''—Ef þessi ,,sannfœring'' verðr almenn, getr það orðið áðr en langt kemr fram á 20. öldina.

En eru þá engir nema þessi eina fátœka stúlka, sem finna kærleika Krists þvinga sig til að leggja fram lítinn part af gjöfum þeim, sem drottinn hefir gefið þeim, til að inna af hendi líknarskylduna?

Mér kemr til hugar hin stórkostlega líknarstofnun lútersku kirkjunnar í Milwaukee. Þegar mannúðarpostulinn dr. Passavant hóf það verk, hafði hann einungis *tvo* doll. til að byrja með.

Hér eru 10 doll., helgaðir þeim tilgangi, að bœta bölið, sársaukann, kvalirnar meðal landa vorra. Eg efast ekki um, að drottinn blessi þessa byrjun og vekji marga menn til að breyta að dœmi þessarar kristnu stúlku, sem þetta hefir gefið af fátœkt sinni af elsku til frelsara síns.

Við líknarstarfsemina gefst mönnum tœkifœri til að svara spurning Jesú Krists: ,,Símon Jónasson, elskar þú mig?''

Minneota, Minn., í Des. 1898.

BJÖRN B. JÓNSSON.

---

Argyle-söfnuðirnir (Fríkirkjusöfnuðr og Frelsissöfnuðr) hafa á síðast liðnu hausti komið sér upp íbúðarhúsi handa presti sínum. Það stendr í miðri Íslendingabyggðinni þar á fallegum bletti örskammt frá kirkjunni, vel vandað og mátulega stórt. Séra Jòn J. Clemens flutti inn í það skömmu fyrir árslok og býr þar síðan með foreldrum sínum.—Þetta er annað prestssetrið, sem reist hefir verið innan kirkjufélagsins á kostnað safnaðanna. Hitt er í Minneota suðr í Minnesota, tilheyranda söfnuði St. Páls kirkju, íbúðarhús séra Björns B. Jònssonar.

---

Form það fyrir guðsþjònustum við útfarir framliðinna, sem kemr í þessu blaði ,,Sam.'', er víst hið fullkomnasta, sem lúterska kirkjan á til

í eigu sinni. Það er þýtt úr *Church Book* General Council-manna, er út kom í Philadelphia 1891. Áframhald forms þessa kemr í næsta blaði, og segir þar fyrir um það, hvernig kveðjuathöfninni við gröfina skuli haga. —Til þess hafa margir fundið, að form það fyrir greftrunar-guðsþjónustum, sem lengi hefir tíðkazt hjá oss Íslendingum, sé allt of fátæklegt. Og er hér nú bœtt úr þeirri vöntun. Í frumvarpinu prentaða (1897) frá handbókarnefndinni á Íslandi er engin tilraun gjörð til endrbótar í þessari grein.

---

Kirkja Pétrssafnaðar í prestakalli séra Jónasar A. Sigurðssonar, sem önnur myndanna í þessu blaði er af, er jafn-gömul nágranna-kirkjunni í Hallson (reist seint á árinu 1897) og eins og hún enn óvígð.— Kirkja Argyle-safnaðanna, sem hin myndin er af, var reist árið 1889, en ekki vígð fyrr en 26. Júní 1896. Séra Jón J. Clemens er þar prestr. Kirkjuþing hefir tvisvar verið haldið í þeirri kirkju: 1889 og 1895.

---

Í ritgjörðinni um Davíðs sálma í síðasta blaði stendr (á bls. 169) upphaf sigrsöngsins, sem séra Valdemar Briem hefir orkt út af 21. kap. 2. Samúelsbókar í fyrra parti Biblíuljóðanna, þannig: „Guð er mitt vígi“, í staðinn fyrir: „Guð mitt vígi“. Og eins áðr í sömu ritgjörðinni á bls. 162.

---



---

„SAMEININGIN“ kemr út mánaðarlega, 12 nr. á ári. Verð í Vestrheimi: $1.00 árg.; greiðist fyrirfram. —Skrifstofa blaðsins: 704 Ross Ave., Winnipeg, Manitoba, Canada.—Útgáfunefnd: Jón Bjarnason (ritstj.), Friðrik J. Bergmann, Jón A. Blöndal, Björn B. Jónsson og Jónas A. Sigurðsson.

---

PRENTSMIDJA LÖGBERGS — WINNIPEG.

# SAMEININGIN.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga, gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

---

FJÓRTÁNDI ÁRGANGR:

Marz 1899—Febr. 1900.

---

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*



ÚTGÁFUNEFND: Jón Bjarnason, Friðrik J. Bergmann, Jón A. Blöndal. Rúnólfr Marteinsson, Jónas A. Sigurðsson.

---

WINNIPEG.
Prentuð í prentsmiðju Lögbergs.



St. Páls kirkja í Minneota.



Fyrsta lúterska kirkja í Winnipeg.



Kirkja Marshall-safnaðar.

# EFNI.

---

Leiðréttingar: 32 (vísa eftir Stgr. Thorst.), 63—64 (Fyrsta lút. kirkja í W.peg), 95 (skólasjóðr), 112 (sálmabókarmál).

---



---

Myndir af kirkjum:

St. Páls kirkju í Minneota í Marz-blaðinu,
Fyrstu lút. kirkju í W.peg “
kirkju Vestrheims-safnaðar í Apríl-blaðinu,
kirkju Marshall-safnaðar “
kirkju Garðar-safnaðar (tvær) í Maí-blaðinu.

---



---

Í fjarvist séra Jóns Bjarnasonar hafði séra Rúnólfr Marteinsson á hendi ritstjórn „Sam.“ frá Júní til Okt. 1899 (nr. 4—8 af þessum árgangi).